ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENÍNISTA)

2. ÁRG. 3. TBL. 1976

## Verkfallið á Akranesi

Fyrir skömmu lauk verkfalli fiskvinnslukvenna á Akranesi og hafði þá staðið í heilan mánuð. Það sem skeði var að þarna reis upp hópur kvenna í frystihúsum Akraness og stóðu einhuga saman í baráttunni fyrir atvinnuöryggi. Konur í frystihúsum hafa allt fram á þennan dag orðið að búa við öryggisleysi



í atvinnumálum sínum. Þegar nægur fiskur er til að vinna , hefur verið hægt að kalla í konurnar, og þegar fiskurinn er unninn og ekki meira að gera eru þær sendar heim og látnar bíða í óákveðinn tíma kauplaust, þangað til ný aflahrota verður og atvinnurekendur þarfnast þeirra á ný.Í samningunum 1974 var samið um kauptryggingu sem hefði átt að vera nokkur bót fyrir fiskvinnslukonurnar. En það kom bara í ljós að svo var ekki og ástandið hélst svotil óbreytt. Samningurinn núna 1976 var frekar skref afturábak en áfram því hann fjallaði meir um uppsagnarákvæði en kauptryggingu og samkvæmt honum mátti segja konum upp hvaða dag vikunnar sem var. Þetta létu konurnar á Akranesi ekki bjóða sér og felldu samningana. Þær gripu til sterkasta vopns verkalýðsins, verkfalls, þar sem einingin var algjör og þess vegna stóðust þær allar árásir hvaðan sem þær komu og stóðu að lokum sem sigurvegarar. Og óþarfi er að minna á að engan stuðning fengu þær frá ASÍ né Verkamannasambandinu.

Slík barátta og sú er háð var á Akranesi er lofsamleg í alla staði og ber að styðja hana dyggilega. Barátta sem þessi er ómetanlegur þáttur í stéttabaráttunni á Íslandi og mun verða mörgum hvatning og styrkur.

EIK(m-l) sendi verkfallskonum stuðningsyfirlýsingu meðan á verkfalli þeirra stóð,sem var svohljóðandi: Styðjum heilshugar baráttu ykkar. Fordæmum andsvör atvinnurekenda, tilraunir til verkfallsbrota og þögn ASÍ forystunnar.

## Fundur í Dagsbrún

Undanfarna laugardaga hafa verið haldnar miðnætursýningar á útþynntum hláturfarsa, "Húrra krakka" í Austurbæjarbíói. Laugardaginn 28. feb. s.l. voru hins vegar tvær leiksýningar í þessu húsi, því auk hláturfarsans var fundur í verkamannafélaginu Dagsbrún, og þar tróðu upp "leiðtogar" félagsins og léku sitt stéttasamvinnuhlutverk undir styrkri og hnökralítilli leikstjórn vina sinna og yfirboðara í Vinnuveitendasambandinu. Þessi félagsfundur var boðaður í því augnamiði að fá samþykkta kjarasamninga þá er félagsforystan var nýstaðin upp frá að undirskrifa á barborði Loftleiðahótelsins. Fundarstjórinn, Ebbi Dagsbrúnarformaður, hóf fundinn á því að segja, að menn yrðu að sýna forystunni þá tillitssemi að segja sem minnst, og helst ekkert um þessa samninga, enda yrði fundi að vera lokið fyrir kl. 19 (hann hófst kl. 16.45) og forystunni veitti hreint ekkert af þessum stutta tíma til þess að gera grein fyrir samningunum. Síðan sté Guðmundur J(aki) í pontu og reitti af sér langar runur af tölum, prósentum o.s.frv. Þar sem fundarmenn höfðu ekkert í höndum, utan blaðsnepil með kauptöxtum og hækkunum á tímakaupi út samningstímann, þá var lítill skilningsauki af því að standa í þessu talnabaði





INNI Í BLAÐINU:

Viðtal við formann AKP (m-l)

Um endurskoðunar stefnuna

Kommúnistar ofsóttir á Norðurlöndum

Gvendar; enda hefur líklega aldrei verið ætlast til þess að menn áttuðu sig á hlutunum á þessari stundu. Síðan gaf fundarstjórinn Ebbi sjálfum sér orðið, og hélt hann langa tölu um lífeyrissjóðamálið. Þar var sama hliðin uppi á teningnum; ekki hafði verið dreift stafkróki um málið meðal fundarmanna og því fátt eitt sem hægt var að átta sig á af máli ræðumanns.

Loks kom svo að því að "óbreyttir" félagar í Dagsbrún fengju að segja sitt álit á samningunum, og til þess höfðu þeir heilar 34 mínútur af dýrmætum fundartíma félagsforystunnar. Í ræðum allra þeirra sem til máls tóku, kom fram hörð gagnrýni á samningana, og þá ekki síður á það hvernig að því væri staðið að fá þá samþykkta í félaginu. Bar einn ræðumanna upp þá tillögu, að haldinn yrði annar fundur að sólarhring liðnum, og þá skyldu atkvæði greidd um þá, enda gæfist fólki þá tími til að kynna sér efnisatriði samkomulagsins og vissi þar af leiðandi betur um hvað væri að velja. Fundarstjóri bar þessa tillögu upp, en lét fylgja með, að allsendis óvíst væri hvort nokkurt húsnæði fengist til fundarhalda næsta dag (!) og óvíst hvort prentun samningsins yrði lokið í tæka tíð. Hvatti hann fundarmenn til að fella þessa tillögu! Þetta atvik flokkast tvímælalaust undir brot á

frh. bls. 5

## Efling landhelgisgæslunnar

EIK(m-l) styðja útfærslu fiskveiðilögsögunnar í 200 mílur.Samtímis hafa þau lagt áherslu á tvö atriði:

a) Með útfærslunni eru íslensku auðhringirnir(SH og SÍS) og ríkið að tryggja sér gróða og áframhaldandi rányrkju á miðunum.Eina leið vinnandi fólks til að berjast fyrir raunverulegri fiskverndun er því að taka upp harða baráttu gegn innlendri rányrkju samhliða baráttunni gegn stórveldunum.

b) Hvorki ríkisvaldið né fámennur hópur embættismanna getur gengið hagsmuna verkafólks og vinnandi alþýðu í fiskveiðideilunni. Það er aðeins skipulögð barátta fjöldans sem færir sigra í baráttunni gegn erlendri og innlendri rányrkju.



Í framhaldi af þessu hafa EIK(m-l) m.a. stutt aðgerðir suðurnesjamanna,barist einarðlega fyrir fjöldaaðgerðum,sem sameina allt baráttufólk í málinu og stutt þá ákvörðun að veita landhelgisgæslunni nauðsynlegar undanþágur í síðasta verkfalli.

Hefur EIK(m-l) þá m.a. sætt gagnrýni frá Fylkingunni,sem hvorki styður útfærsluna né aðgerðir gæslunnar á miðunum - í nafni "sósíalismans".

Nú standa breytingar á landhelgisgæslunni fyrir dyrum.

Aðalatriðið eru kaup eða leiga á litlum herskipum til eflingar gæslunni. Nú á að leita til risaveldanna,Bandaríkjanna og Sovétríkjanna,um kaup á hraðskreiðum skipum.Einnig streyma tilboð frá stríðsvélabröskurum úti í heimi. Athyglisverðasta tilboðið er frá Hollandi með milligöngu heildsalans Rolfs Jóhansens,en Rolf er einn af styrktarmönnum Þjóðviljans bak við tjöldin(!) - enda getur Þjóðviljinn eitt blaða þessa tilboðs.

EIK(m-l) taka afstöðu gegn fyrirhugaðri eflingu gæslunnar.

Þar kemur fyrst til að gæslan er hluti lögreglu- og valdbeitingarliðs ríkisins.Henni verður beitt (eins og lögreglu) gegn verkalýð og vinnandi fólki þegar tilefni gefast.Menn muna eftir liðinu er verndaði Nixon og Pompidou um árið.

Þótt EIK(m-l) meti jákvæðan þátt gæslunnar í baráttunni við Stóra-Bretland eru samtökin andvíg því að gæslan sé efld með launuðu starfsliði, vígvélum og aðstoð erkióvina alþýðunnar, Bandaríkjanna eða Sovétríkjanna. Og einmitt er útlit fyrir að Bandaríkin neiti, en Sovét "komi til hjálpar".

EIK(m-l) vilja efla gæsluna á eftirfarandi hátt:

Ríkissjóður greiði reksturskostnað 10-15 skuttogara(óvopnaðra) er hefji skæruaðgerðir með klippum á miðunum.Togararnir yrðu mannaðir föstum áhöfnum sínum og sjálfboðaliðum úr t.d. Stýrimanna- og Vélskólanum.Þeir væru undir stjórn sömu skipstjóra og venjulega og aðeins tengdir stjórnstöð landhelgisgæslunnar til upplýsinga.

ÞETTA ER SAMHLJÓÐA STEFNU EIK(M-L):

Alþýðan ein skal verja sjálfræði landsins.Hún ein getur varið hagsmuni vinnandi fólks gegn erlendu og innlendu afturhaldi,undir forystu verkalýðs til lands og sjávar.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
málgagn EIK(m-l)
RITSTJ. OG ÁB.M.:ALBERT EINARSSON

LEIÐARI

# NIÐURSTÖÐUR KJARASAMNINGANNA

Nýgerðir kjarasamningar eru sennilega þeir verstu í sögu ísl. verkalýðshreyfingar. Af hverju?
Jú,a) þeir koma að undangengnu tveggja ára stórtæku kaupráni, b) hljóða ekki upp á neinar endurheimtur af skertum kaupmætti,heldur bendir allt til áframhalds sömu þróunar og c) samningurinn gildir fyrir meira en eitt ár.

Björn Jónsson kallar samninginn "varnarsigur" og að "haldið sé í horfinu" - þótt hann viðurkenni,að kaupmáttur muni ekki aukast frá því fyrir samninga. Einkennileg notkun orðanna"að halda í horfinu".Þegar búið er að skerða kaupmátt verkafólks um þriðjung(frá mars 1973) og ekki króna vinnst síðan í samningum,er það þá að "halda í horfinu"?

Alvarlegasta áfallið var afgreiðsla verðtrygg-



ingarinnar.Kerfið með "rauðu strikin" er aðeins viðurkenning á að vísitölukerfinu sé endanlega kastað á ruslahaugana."Rauða strikið" sem sett var í samningunum 1975 og reynslan af því sýnir fólki hvers má vænta nú.Með auknum niðurgreiðslum og öðrum efnahagsaðgerðum ríkisvaldsins,var vísitölunni haldið niðri það mikið að ekki kom til greiðslu vísitölubóta fyrr en í lok samningstímabilsins.Vísitalan var látin fara það lítið yfir "rauða strikið" að kauphækkunin varð undir 1%. Og hvaðan er fé til niðurgreiðslunnar tekið? Úr vasa vinnandi fólks.Það var fært úr öðrum vasanum yfir í hinn.

Loforð borgaralegra hagfræðinga um væga verðbólgu á þessu ári ber að taka eins og annarri ástæðulausri bjartsýni þeirr á undanförnum mánuðum sídýpkandi kreppu.

Mörgum verkamanni mun hafa sýnst að í þessum samningum hafi raunverulega verið lagt mikið í sölurnar og reynt að ná sem mestu fram. Þegar svo árangurinn verður enginn spyr fólks sig eðlilega: Eru þá ekki verkföll gagnslaus?

Nei og aftur nei,en af hverju náðust þá ekki betri samningar. Því er til að svara:

1. ASÍ-forystan ætlaði sér aldrei að ná fram raunverulegum kjarabótum.Það sést best á því að hún se setti aldrei fram neinar kröfur um kauphækkanir né kröfur um verðtryggingu. Afdrif verðtryggingarmálsins verður að skoðast í samhengi við játningar ASÍ forystunnar að "vísitölukerfið sé verðbólguhvetjandi".
Það var ekki meining ASÍ-forystunnar að ná fram kjarabótum. Verkfallið var augljóslega að verulegu leyti pólitískt sjónarspil, sem "vinstri" flokkarnir settu á svið til að reyna að fella stjórnina og komast sjálfir í stólana.

2. Í sjálfu verkfallinu var ekki aðalvandamál verkalýðsforystunnar að skapa þrýsting á atvinnurekendur og ná kjarabótum, heldur gaf hún sjálf, sem og atvinnurekendur,í skyn, að aðaltöfin við samningsgerðina hafi verið hinir flóknu útreikningar til að finna "réttlátasta skiptingu milli starfsgreina" og bestu lausn fyrir"báða aðila vinnumarkaðarins og þjóðarbúið". Þetta þýddi að tíminn fór í að koma í lóg kröfum frá stéttarfélögum, sem a.m.k. settu fram einhverjar kröfur, en skorti þó dug til að halda sig utan samflotsins. Sýnilega átti ASÍ-forystan í erfiðleikum með fulltrúa ýmissa hópa, en svo fór þó um síðir, að það tókst að koma flestum sérkröfum fyrir kattarnef.

Fólk stendur ekki að neinu leyti betur eftir þessa stéttasamvinnusamninga.

En hvað er þá til ráða nú? Næstu samningar verða eftir rúmt ár. Þann tíma verður að nota vel til að það gerist ekki, sem oftast áður, að andstæðingar stéttasamvinnunnar standi óundirbúnir og berskaldaðir þegar komið er að samningum. Mikil óánægja er með þessa samninga. Menn sjá sem er, að ef eitthvað var, þá tapaði verkafólk á þessu verkfalli. EIK(m-l) hefur oft bent á áður, að andstæðingum stéttasamvinnunnar er nauðsynlegt að skipuleggja sig, bæði innan eigin stéttarfélaga og einnig á landsmælikvarða.

VINNANDI FÓLK - HEFJIÐ ÞEGAR UNDIRBÚNINGSSTARF FYRIR NÆSTU KJARASAMNINGA. HEFJIÐ BARATTU GEGN STÉTTASAMVINNUNNI - SKIPULEGGIÐ BARÁTTUNA OG BERJIST TIL SIGURS FYRIR KRÖFUM YKKAR.



ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENÍNISTA)
Verð:Áskrift 600 kr.
í lausasölu kr.80.
ÚTGEFANDI:Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista)
Póstfang: Skólastræti 3b,Reykjavík.
Áskrift í síma 35904.

# Verk Chou En-lai lifa

Chou En-lai ein mesta hetja kínversku byltingarinnar er látinn. Hann hóf byltingarbaráttu sína snemma. Á árunum fyrir 1920 tók hann þátt í baráttu kínverskrar alþýðu gegn lénsherrum og heimsvaldastefnu. Á námsárum sínum í Evrópu gekk hann í kínverska kommúnistaflokkinn og vann þar eins og ætíð síðan af dæmafárri fórnfýsi í þágu kínverskrar alþýðu.

Þau feikilega mörgu trúnaðarstörf sem Chou En-lai gengdi á vegum flokksins verða ekki talin upp hér nema þau allra helstu. Fjöldi þeirra sýnir hve mikið traust flokkurinn og alþýðan báru til hans. Undir leiðsögn Mao Tse Tung átti Chou mestan þátt í að byggja upp hinn sigursæla rauða her og hann stjórnaði göngunni miklu ásamt með Mao. Þegar rauði herinn handtók Chiang Kai-shek kom það í hlut Chou að semja við hann. Chiang kai-shek neyddist þá til að hætta árásarstríði sínu gegn rauða hernum og var þá hægt að mynda þjóðarfylkingu gegn japönsku heimsvaldasinnum.

Eftir valdatöku verkalýðs og bænda í Kína 1949 varð Chou forseti alþýðustjórnarinnar en þekktastur hér á landi er Chou fyrir störf sín sem utanríkisráðherra. Á Genfarráðstefnunni um Víetnam 1954 var Chou einn af virtustu mönnum þar enda tók stefna hans ætíð mið að því að styðja kúgaðar og arðrændar þjóðir og stéttir í öðrum löndum í baráttu þeirra gegn heimsvaldastefnu og yfirráðum borgaranna. Öreigasinnuð utanríkispólitík Chou varð til að rjúfa þann einangrunarmúr sem kaldastríðsáróður Bandaríkjanna og sporhunda þeirra þ.ám. Ísland hafði reist til höfuðs Kína.




Íbúar í Peking kveðja leiðtoga sinn Chou En-lai við kveðjuathöfn í menningarhöll hinnar vinnandi alþýðu.

Chou efldi mikið tengsl kínverska kommúnistaflokksins við erlendar marx-leníniska flokka og hreyfingar og var í broddi fylkingar í gagnrýni á nýju keisaranna í Kreml og heimsvaldastefnu þeirra.

Í Kína tók Chou En-lai ætíð virkan þátt í stéttabaráttunni bæði fyrir og eftir byltingu. Hann studdi menningarbyltinguna og baráttuna gegn hugmyndum Lin Piao og Confuscius af heilum hug og lagði þar ætíð hagsmuni verkalýðs og bænda til grundvallar í baráttunni.

Alþýða Kína og annarra landa syrgir Chou En-lai. Hún hefur misst leiðtoga sem var fórnfús í þágu flokksins og fjöldans og hafði mikinn skilning á þörfum alþýðunnar. Borgaralegir fjölmiðlar og embættismenn keppast nú við að dásema Chou En-lai sem var útmálaður af þeim sömu sem fulltrúi "gulu hættunnar" fyrir tíu árum eða svo. Þeir tala ekki mikið um þjóð hans, stærsta þjóð í heimi, var ekki til hjá S.Þ. í rúmlega 20 ár vegna fjandskapar bandarísku heimsvaldasinnanna. Borgaralegu fjölmiðlarnir kjósa að gleyma þessu og láta eins og barátta heimsvaldasinna gegn Kína hafi aldrei verið til.

Þrátt fyrir dauða Chou En-lai heldur uppbygging sósíalisks þjóðfélags áfram í Kína af sama þrótti og áður. Árangurinn leynir sér ekki. Fyrir 25-30 árum var Kína jafn illa eða verr á vegi statt en Indland, nágrannaríki þess. En sósíalisminn í Kína hefur sýnt margfalda yfirburði yfir kapitalisma og fasisma indversku einræðisaflanna svo þar er munurinn eins og svart og hvítt. Og meðan sovésku nýkeisarnir botna ekkert í því "af hverju er ekki hægt að rækta korn lengur" á hinum frjósömu sléttum Sovétríkjanna eykst matvælaframleiðsla kínverja ár frá ári. Í sósíalisku byltingunni í Kína leystist múgorka milljónanna úr læðingi, sú orka er sí virk þrátt fyrir fráfall eins af forustumönnum byltingarinnar. Með starfi sínu gaf Chou En-lai fordæmi sem seint mun gleymast meðal alþýðu Kína og annarra landa.

# Harðnandi stéttabarátta í Noregi



Í janúar s.l. átti Verkalýðsblaðið viðtal við Pål Steigan úr sendinefnd AKP(m-l) til Íslands. Steigan er formaður AKP(m-l), Kommúnistaflokks verkamanna (marx-lenínista) í Noregi, systursflokks EIK(m-l).
Hér birtist viðtalið stytt.

## Viðtal við Pål Steigan formann AKP(m-l) Noregi

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Geturðu sagt okkur í stuttu máli frá ástandinu í Noregi nú?

Pal Steigan: Það er mjög jákvætt. Á síðustu árum hefur stéttabaráttan harðnað. Árið 1974 var mikilverðasta verkfallsárið eftir heimsstyrjöldina síðari. Pólitísk barátta fyrir hærri launum, gegn geðþóttauppsögnum verkamanna og gegn því að kjör og laun séu ákvörðuð fyrir alla í einum samningi og með tilskipunum, hefur eflst mjög. Þessi barátta lofar góðu.

Norska efnahagslífið á nú í dýpstu kreppu eftir stríðsáranna. Fjölda vinnustaða er lokað og fjöldauppsagnir miklar. Ríkið og einokunarauðvaldið reyna að mæta kreppunni með því að rýra kaupmátt launa og tengja þau áætlanagerð ríkisvaldsins og styrkir þetta bæði ríki og einokunarauðvaldið.

Ársins 1975 verður minnst, sem upphafsárs að sjálfstæðum aðgerðum smábænda gegn einokunarauðvaldinu. Aðgerðir vinnandi bænda voru skref í átt að einingu milli vinnandi fólks á landsbyggðinni og verkalýðsins í bæjum.

Á árinu 1974 náði ríkið undir sig meirihluta hlutabréfa í iðnaðinum og er skýringin fólgin í því að margir einstakir auðherrar hafa ekki fjármagn til að fjárfesta í vaxandi olíuiðnaði.

Einokunarauðvaldið og ríkisvaldið ráðast á lífskjör verkalýðs og vinnandi alþýðu hefta pólitíska baráttu og auka undirokun.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: AKP(m-l) er nú þriggja ára gamall. Segðu stuttlega frá starfi flokksins og baráttumálum?

PS: AKP(m-l) er lítill flokkur en dugmikill til forustu. Flokkurinn er vel þekktur meðal verkalýðsins og er honum ljóst að flokkurinn er forystuafl. Þegar verkamenn hefja baráttu leita þeir oftast til marx-lenínistanna eftir ráðum

frh.bls. 5.

UTAN ÚR HEIMI

Pólland – Vesturþýskaland.

# Verslað með fólk

Nýlega var gerður samningur milli Póllands og V-Þýskalands. Samningurinn er efnahags- og viðskiftasamningur. Það sem verslað er með fólk. V-Þýskaland borgar Póllandi 2,3 milljaðrð marka í svo kallaða "efnahagsaðstoð" fyrir 125 þús. pólverja af þýskum uppruna, sem flytja á til V-Þýskalands.

Endurskoðunarsinnarnir, hin nýja drottnarastétt í Póllandi fer að fordæmi herranna í Kreml varðandi verslun með fólk. Kremlherrarnir hafa gjarnan látið hópa sovéskra gyðinga fljóta með í viðskiptum til þess að ná hagstæðari samningum. Þarna eru mannréttindi fótum troðin, svo dæmin verða varla skýrari. Að sjálfsögðu eru ekki hagsmunir þýsku pólverjanna látnir setja í fyrirrúmi í þessum samningum, heldur sameiginlegir hagsmunir drottnaranna í V-Þýskalandi og Póllandi - kúgun og undirokun vinnandi stétta. Þýsku pólverjarnir eru undirokaður minnihlutahópur í Póllandi, þeir njóta ekki sömu réttinda og aðrir landsmenn. Krafa þeirra er að öðlast mannréttindi til þess að ákveða sjálfir sína eigin framtíð, en ekki til að láta hina nýju borgarastétt Póllands nota sig í viðskiptasamningum.

FORDÆMUN ALLA VERSLUN MEÐ FÓLK - STYÐJUM ÞJÓÐLEGA MINNIHLUTAHÓPA Í RÉTTINDABARÁTTU ÞEIRRA!

# Kommúnistar ofsóttir á Norðurlöndum

Kommúnistaofsóknir eru orðnir tíðir viðburðir á Norðurlöndum. Í Danmörku er háð mikil herferð á hendur félögum Kommúnistisk Forbund(m-l), KFML. Skeleggri baráttu þeirra á vinnustöðum, gegn atvinnuleysi og kreppupólitík sósíaldemókratísku ríkisstjórnarinnar, er mætt með því að segja þeim upp vinnu og leggja þá í einelti. Í Noregi var 60 verkamönnum sagt upp störfum af pólitískum ástæðum 1975. Margir byltingarsinnar voru reknir úr fagfélögum sínum og nýlega var öll stjórn eins fagfélags rekin af sambandsstjórninni. Í Svíþjóð hefur verið oftlega ljóstrað upp um persónunjósnir á kommúnistum. Upp hefur komist um vel skipulagða "ólöglega" njósnahreyfingu, kostaða af sænska ríkinu, til njósna á störfum kommúnista. Skrifstófusímar Kommúnistaflokks Svíþjóðar voru hleraðir og heimasímar framámanna flokksins. Í Finnlandi er ofsóknum á hendur marx-lenínistum stjórnað beint af KGB, sovésku leyniþjónustunni. Í öllum þessum löndum er herferð þessi liður í herferð afturhaldsins að fá starfsemi kommúnista bannaða og flokka þeirra. Fordæmin eru m.a. fengin frá fasískum aðgerðum hernaðarsinna verturþýskalands, enda er skammt á milli föðurhúsanna þar sem í öllum þessum löndum eru sósíaldemókratar við völd og óeðlilegt að ætla annað en að þeir miðli hver öðrum af reynslu sinni.

Vaxandi kommúnisk hreyfing hér á Íslandi má vænta samskonar aðgerða frá afturhaldinu. Þess vegna verða íslenskir kommúnistar að efla árvekni sína og undirbúa sig undir að taka á móti árásum afturhaldsins - Og afturhaldið er ekki aðeins ógrímuklætt sjálfstæðisflokksafturhald, heldur lagar sig að aðstæðum og hjúpar sig oftlega róttækum búningi.

AFHJÚPUM AFTURHALDIÐ - EFLUM ÁRVEKNINA - SKIPULEGGJUM ALLA BARÁTTU Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTUNNAR!

# Nýr kommúnistaflokkur í Austur-Þýskalandi

Um síðustu áramót var stofnuð Austur-Þýskalandsdeild Kommúnistaflokks Þýskalands(marx-lenínista), KPD/ML. KPD/ML skipuleggur nú kommúnista í báðum hlutum Þýskalands.

Austur-Þýskalandsdeildin berst á sama hátt og KPD/ML í V-Þýskalandi fyrir sameiningu beggja hluta Þýskalands í eitt óháð sósíalískt Þýskaland. KPD/ML deildin í A-Þýskalandi berst fyrir því að steypa af stóli borgaraalræðinu í A-Þýskalandi og er baráttunni beint gegn hinni nýju borgarastétt landsins og gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, sem er stærsti fjandi sósíalísku byltingarinnar í A-Þýskalandi. KPD/ML, berst gegn skiftingu landsins í tvo hluta sem báðir eru undir járnhælum heimsvaldasinna, austurhlutinn undirokaður af sósíalheimsvaldasinnun Sovétríkjanna og hinni nýju borgarastétt í A-Þýskalandi og vesturhlutinn undirokaður af vesturþýsku heimsvaldastefnunni.

Hin byltingarsinnaða andstaða í Austur-Evrópu er í miklum vexti. Í Sovétríkjunum eru fyrir hendi fleiri hópar byltingarsinnaðra kommúnista, t.d. Byltingarsinnaðir kommúnistar Sovétríkjanna(bolsévíkar), Stalín-hópurinn, Kommúnistabandalagið. Í Póllandi starfar Kommúnistaflokkur Póllands, en aðalritari flokksins Kaszimierz Mijal, einn af fyrrverandi leiðtogum úr miðstjórn "Verkamannaflokks" Póllands, sem nú er flokkur endurskoðunarsinna í Póllandi. Í Tékkólsóvakíu hefur færst lífsmark í hina marx-lenínísku andstöðu. Tékkneskir marx-lenínistar sendu m.a. kveðju til albönsku félaganna í tilefni 30 ára afmælis Alþýðulýðveldisins Albaníu. Í Ungverjalandi er enn ekki til skipulagður hópur marx-lenínista, en margir þekktir rithöfundar og menntamenn hafa orðið fyrir hörðum árásum og ofsóknum vegna skrifa sinna, þar sem komið hefur fram byltingarsinnuð afstaða. Kommúnistar í A-Evrópu eru ofsóttir af yfirvöldum þessara landa, sem hika ekki við að beita fasískum ofsóknaraðferðum gegn þeim.

# Frá Albaníu: UM LANDHELGISMÁLIÐ

Albanska blaðið "Zeri i popullit" birti þann 26. febr. s.l. grein, þar sem fjallað er um baráttu íslenskrar alþýðu fyrir sjálfsákvörðunarrétti og þjóðlegu sjálfstæði. Þar segir m.a. að breska ríkisstjórnin fylgi hinni skipulögðu rányrkjustefnu bresks auðvalds eftir með hervaldi og traðki þannig á sjálfstæði lítils og fullvalda ríkis. Blaðið segir að íslensk alþýða hafi skipulagt kröftugar mótmælaaðgerðir og ísl. ríkisstjórnin hafi rofið stjórnmálasamband við Stórabretland. Stjórnmálaslitin við breta, segir blaðið, tákna ekki aðeins ágreining milli tveggja nágrannaríkja, heldur er þetta tákn um ágreining tveggja samherja innan sama pólitísks og hernaðarlegs bandalags; nýr brestur í NATO.

Íslensk alþýða, skrifar blaðið, er sífellt að verða þess meðvitaðri að NATO og bandaríska heimsvaldastefnan, sem stendur að baki þessu bandalagi, hafa einungis áhuga á því að halda í herstöðvarnar sem NATO hefur á Íslandi. Það er því eðlilegt við þessar aðstæður, að ísl. alþýða takmarki ekki baráttuna fyrir varðveislu

frh. bls. 5.

# Sannleikurinn um Sovétríkin



Austur í Sovétríkjunum er gefið út dagblaðið PRAVDA, en nafnið útleggst á íslenskri tungu sannleikur. Þetta blað flutti heiminum lengi vel sannleikann um baráttu hinna kúguðu í Sovétríkjunum, um byltingu öreiganna og uppbyggingu sósíalismans í landinu.

Í dag er það annars konar sannleikur sem finnst á síðum Prövdu. Það er sannleikurinn um enduruppbyggingu auðvaldsskipulagsins í Sovét, um gráðuga heimsvaldastefnu Sovét í dag og aumlegar tilraunir valdastéttarinnar þar til að klóra yfir skít sinn með skírskotunum til marx-lenínismans.

Nýlega birti Pravda grein eftir náunga að nafni S.Pavlof, undir fyrirsögninni Slökun spennu - 200 mílna auðlindalögsaga. Þessi grein túlkar vel sjónarmið Sovétstjórnarinnar í hafréttarmálum, og sýnir andstöðu þeirra við framsækna stefnu þriðja heimsins, með Kína í broddi fylkingar, í hafréttarmálum. Við birtum hér kafla úr greininni úr Prövdu, svo að lesendur geti kynnt sér þessi mál af eigin raun. Við viljum sérstaklega benda á þessi atr.:

1. Kröfu Sovét um að "ef strandríki nýti ekki að fullu fiskistofna sína, megi önnur strandríki veiða það sem umfram er". Þróunarríki skulu hljóta "umbun" fyrir greiðann! - Túlki svo hver sem vill.

2. Viðhorfin til krafna ríkja um 200 mílna landhelgi - þær eru kallaðar öfgafullar og sagðar munu þýða það að 40% hafsvæða "glatist til alhliða nýtingar allra þjóða(?).

3. Krafa Sovét um frjálsar siglingar og óhindrað flug.

Við getum að lokum tekið fúslega undir þau orð greinarhöfundar, að koma beri í veg fyrir yfirráð heimsvaldasinns yfir hafsvæðum, en viljum þó bæta við og undirstrika, að við viljum koma í veg fyrir yfirráð heimsvaldastefnunnar í öllum birtingarmyndum hennar og þar með einnig sósíalheimsvaldastefnunnar sovésku. Sovétríkin eru auðvaldsríki og gráðugt heimsvaldasinnað stórveldi, þó svo valdamenn þar flaggi "marxisma" til að blekkja alþýðuna. Risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin, ásamt Efnahagsbandalaginu, eru öfl sem staðið hafa skipulega gegn því að hafréttarráðstefnur tækju afstöðu í hafréttarmálum, sem andstæð væri hagsmunum heimsvaldastefnunnar.

Þessi öfl eru grimmustu óvinir alþýðunnar í dag!

„Með skírskotun til viðurkenndra vísindalegra rannsókna á líffræðilegri afkastagetu hafsvæðanna er það skoðun Sovétríkjanna og margra annarra þjóða, að vel sé hægt að leysa spurninguna um efnahagslögsögu, þó að bæði sé tekið tillit til hagsmuna strandríkja og annarar landa, sem stunda veiðar á úthöfum. Lausnin er fólgin í því að hin alþjóðlega hafréttarreglugerð viðurkenni sem grundvallarreglu fulla nýtingu lífrænna náttúruauðæfa innan efnahagslögsögu. Þetta þýðir fyrst og fremst, að ef strandríki nýtir ekki að fullu fiskistofna sína, megi önnur strandríki veiða það sem umfram er. En jafnvel í slíku tilfelli mundu þróunarríki njóta efnahagslegrar umbunar fyrir að veita erlendri þjóð aðgang að fiskimiðum sínum.

Afstaða þeirra ríkja, sem krafist hafa 200 mílna landhelgi, sérstaklega Kína, hefur fyrst og fremst komið í veg fyrir það að 12 mílna landhelgi hafi verið viðurkennd sem alþjóðalög. Öfgafullar kröfur þeirra þýddu í raun, að 40 af hundraði af öllu hafsvæði yrði undir lögsögu einstakra ríkja og glataðist til alhliða nýtingar allra þjóða. T.d. mundi hafsvæðum eins og Norðursjó, Miðjarðarhafi, Karabíska hafinu o. fl. verða skipt milli örfárra strandríkja.

Eins og mörg önnur ríki, styðja Sovétríkin að samin verði alþjóðleg reglugerð um frjálsar siglingar allra skipa á alþjóðlegum siglingaleiðum og óhindrað flug á slíkum leiðum. Sú reglugerð viðurkenndi staðreyndir, sem þegar hafa sannað gildi sitt. — Það er augljóst, að reglugerð um alþjóðlegar siglinga- og flugleiðir yrði að tryggja rétt og hagsmuni landa, sem alþjóðlegar samgönguleiðir liggja um. Tillögur Sovétríkjanna og annarra sósíalískra ríkja þar að lútandi gera ráð fyrir samkomulagi, sem tryggði öryggi þessara ríkja, óskert yfirráð þeirra yfir landi sínu og pólitískt sjálfstæði.

Með sameiginlegu átaki allra ríkja þarf að koma á fót alþjóðlegu eftirlitskerfi gegn mengun úthafanna. Ef slíku kerfi yrði komið á einhliða af einstökum ríkjum, mundi það óhjákvæmilega leiða til misræmis í kröfum varðandi útútbúnað skipa og reglna um meðhöndlun úrgangs. Það mundi hafa í för með sér ófyrirsjáanlega erfiðleika fyrir alþjóðlegar siglingar og orsaka deilumál og vandræði.

Það sem skiptir máli við lausn á deilunni um nýtingu hafsbotnsins fyrir utan landgrunnið og nýtingu auðæfa þess, er að koma í veg fyrir yfirráð heimsvaldasinna yfir þessum svæðum.

Stefna sú, sem túlkuð er af fulltrúum Kína á hafréttarráðstefnu SÞ, er sérlega fjarstæðukennd. Þeir lögðu til, að afnumin skyldu slík almenn hugtök sem úthaf, landhelgi, frjálsar siglingar á alþjóðlegum siglingaleiðum og önnur viðurkennd grundvallarhugtök. Áform stjórnarinnar í Peking er að gera úthöfin að þrætuepli til þess að draga athygli þjóða, sérstaklega þróunarríkja, frá hagkvæmri nýtingu auðlinda sjávar. Á þennan máta er ómögulegt að finna lausn hinna brýnu hafréttarvandamála.

Heimshöfin geta verið, og verða að vera, vettvangur samstöðu og samstarfs ríkja í milli og viðleitni þeirra til friðar og framfara.

# Um endurskoðunarstefnuna

I kjölfar 25. flokksþings endurskoðunarsinnanna í Moskvu á dögunum, hófst umfangsmikil áróðursherferð Kremlarbænda á Vesturlöndum, og þá einnig hér á Íslandi. Áróðursmaskína þeirra hér, Novosti(APN), hefur bunað út úr sér miklum fróðleik um þingið og leiðtogann Brésneff í máli og myndum, og hefur ekkert verið til sparað að koma þessum upplýsingum á framfæri við íslenska fjölmiðlanotendur. Þannig hafa t.d. verið upp keyptar heilar síður dagblaða, þar sem birt voru brot úr ræðustúfum Brésneffs og fleiri leiðtoga og heyrst hefur að APN-fréttastofan hafi þrýst töluvert á ríkisfjölmiðlana, í þeim tilgangi að fá þá til að helga þinginu mikla dágóðan tíma af dagskrá þeirra. En þó að allir fjölmiðlarnir hafi helgað þessu máli nokkurt rúm undanfarið, þá skipar dagblaðið Tíminn greinilega sérstakan sess hvað varðar umfjöllun um það. Þetta blað hefur um langt skeið notað efni frá APN til uppfyllingar á síðum sínum, og hefur birt hvern langhundinn á fætur öðrum þar sem fjallað er um heimsmálin séð af sovéskum sjónarhóli. Flokksþingið mikla í Moskvu fékk gott og mikið rúm í Tímanum, og spönnuðu frásagnir þaðan samtals margar síður á meðan á því stóð; einn daginn var m.a.s. öll baksíða blaðsins undirlögð. Má því búast við því að þekking fólks til sveita hafi aukist töluvert upp á síðkastið, a.m.k. um sovésk málefni, en Tíminn státar sig stundum af því að vera "málgagn dreifbýlisins".

Þessum áróðri fjölmiðlanna hefur svo verið fylgt eftir með stórútsölu á blöðum, bókum og ritlingum, frá áróðursmeisturum Kremlarbænda, í a.m.k. tveimur bókaverslunum í Reykjavík, þ.e. hjá Máli og menningu og að nokkru í Rauðu stjörnunni. Sú fyrrnefnda hefur um árabil verið voldugur dreifingaraðili sovésku áróðursmaskínunnar, svo að það vakti í sjálfu sér litla furðu að sjá liggja frammi á borðum í MM hauga af litteratúr með flokksstimpli pólitísku öfugugganna í Kreml. Hitt vakti þó meiri furðu mína, að í bókabúð KSML, Rauðu stjörnunni getur að líta dágóðan forða af útgáfuefni frá Útgáfufirma á framandi tungur í Moskvu. Taka ber þó fram, að sumt af þessu efni eru klassísk skáldrit sósíalískra höfunda í Sovét sósíalismans, en hins vegar getur þarna líka að líta tvö af "höfuðritum" endurskoðunarstefnunnar í Sovét nútímans. Annað er "marxísk heimspeki" eftir V. nokkurn Afanasyev, og hitt er "grundvöllur pólitískrar hagfræði" eftir P.Nikitin. Báðar þessar bækur eru góð dæmi um þá fölsun á marxismanum sem hafin var í Sovét eftir miðjan 6. áratuginn; hin síðarnefnda er t.d. árangur af samkeppni(!) um aðgengilega falsbók í "marxískri" hagfræði, sem endurskoðunarsinnarnir undir leiðsögn Krúsjeffs sáluga gengust fyrir árið 1959, enda þótti þeim að vonum óhæft að hafa ekki annað til kennslu í pólitískri hagfræði en hina frábæru marx-lenínísku hagfræði sem gefin var út í Sovét á tímum Stalíns, og hann nefndi "gjöf til kommúnista alls heimsins". Því var tekið til þess snilldarbragðs, að auglýsa eftir færasta falsara marxískrar hagfræði í ríki Krúsa, og árangurinn af starfi þess merka manns er þessi bók sem finnanleg er í Rauðu stjörnunni, hafi menn áhuga á að kynna sér sorann.

En í Rauðu stjörnunni má líka finna endurskoðunaráróður í öðrum myndum. Þar er einnig selt útgáfuefni sænskra glæpasamtaka, KFML(r), en þau eru haldin heiftarlegri "vinstri" róttækni af trotskískum toga og kenna sig við marx-lenínisma, án þess þó að eiga neitt sameiginlegt með marx-lenínískum samtökum og flokkum nema nafnið eitt. KSML voru formleg systursamtök KFML(r) þar til fyrir tæpu ári síðan, en áhrifa af falslínu þessarra sænsku samtaka gætir þó greinilega enn hjá KSML, t.d. í stéttgreiningu samtakanna. Í Rauðu stjörnunni má og finna efni frá "hægri" hentistefnusamtökum í Danmörku, KAml, svo að í þessari búð er um allauðugan garð að gresja fyrir þá sem vilja kynna sér hin ýmsu form sem fölsun á fræðikenningu marx-lenínismans getur tekið á sig.



Að lokum: stofnun Rauðu stjörnunnar var að mínu viti stórt stökk fram á við, enda ekki vanþörf á verslun sem verslaði með"bækur og blöð sem fjalla um málefni verkalýðsins..."(sbr. auglýsingar R.s.). En sé markmið búðarinnar að selja efni tileinkað baráttu verkalýðsins, hvernig í ósköpunum samræmist það þá þessu markmiði að breiða út allar þessar lygar og falsanir á marx-lenínismanum, sem er svo áberandi stór hluti af söluefni búðarinnar?

Því spyr ég þessa, að í Stéttabaráttunni, málgagni KSML, birtist í vetur grein eftir K.G., þar sem hann lýsti því hátíðlega yfir að EIK(m-l) væru fulltrúar og útbreiðendur nútímaendurskoðunarstefnunnar á Íslandi í dag. Mér sýnist að samtök K.G., KSML, séu óumdeilanlega "tekin við" þessu hlutverki og gangi rösklega fram í útbreiðslu á falslínu endurskoðunarsinna og allskyns falskandídata á marx-lenínismanum. Á sama tíma hefur EIK(m-l) skorið upp herör gegn endurskoðunarstefnunni og treystir stöðugt marx-leníníska línu samtakanna.

A.R.H.

# Fölsun á marxismanum

Baráttan milli kommúnista og alls kyns afla, sem vilja endurskoða marxismann er ekki ný bóla. Sósíaldemókratar hafa löngum barist fyrir "jafnaðarstefnu" auðvaldsins (sbr.Alþýðuflokkurinn og viðreisnarstjórnin). Ein aðalkenning þeirra er sú að ríkisvaldið sé óháð stéttum,ekki samgróið auðvaldinu og undir yfirráðum þess.Þetta er gert til að færa rök fyrir staðleysunni um að meirihluti á þingi nægi verkalýðnum til að ná yfirráðum í þjóðfélaginu. Þegar Krúsjeff og Co. í Sovétríkj. voru að brjóta niður sósíalismann þar beittu þeir sömu rökum: Þeir sögðu að "ríkisvaldið(sem þeir réðu) væri nú ríki alls fólksins". Framhaldið þekkja allir t.a.m.Tékkar.

Hér er það Fylkingin, sem heldur fast við kenninguna um "óháð" ríkisvald,sem ekki er stéttbundið.Í Sovétríkjunum núna "ræður hvorki borgarastéttin né öreigastéttin" - heldur skrifræðisvald,segir Fylkingin. Hún ver því í raun svartasta afturhaldið í Sovétr. Fylkingin ver Brésneff og Co.og ríkisvald þeirra, sem sitja fast í skjóli þeirrar innrætingar hjá alþýðunni að ríkið sé valdatæki hennar og allra íbúa Sovétríkjanna.Því fer engin barátta fram gegn því;með kenningunni um "ríki alls fólksins" hefur endurskoðunarsinnunum tekist að slæva alla stéttabaráttu í Sovétr.

En Alþýðubandalagið er sannarlega hvorki eftirbátur sósíaldemókrata af Gylfa-tegund,Krústjeffs eða spekinganna í Fylkingunni.

"Sameinað auðvald og ríkisvald" - heitir leiðari í Þjóðviljanum 16.2. Innihaldið er tilraun til að fá fólk til að trúa því að nú þegar Geir er forsætisráðherra þá þjóni ríkisvaldið auðvaldinu, en ef Ólafur eða kanski Lúðvík væru í sömu stjórn réði verkalýðshreyfingin ríkisvaldinu. Og lausnin er auðvitað: 32 Alþýðubandalagsmenn á þing.

En þegar alþýðufólk segir: "Þeir eru allir eins" - og meinar flokkana og ríkisstjórnirnar, þá er það laukrétt. Enda er markmiðið að afnema þetta umtalaða ríkisvald og smíða nýtt,sem er auðvitað stéttarvald - vald verkalýðs og vinnandi alþýðu.

Með endurskoðunarstefnu sinni er Alþ.b. hjálparhella auðvaldsins. Það verður að smíða nýjan stjórnmálaflokk,sem er laus við allar firrur Alþýðubandalagsins: KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS.

# Alræði öreiganna í Albaníu og Kína



Kommúnistar benda á alræði öreiganna - nýtt ríkisvald vinnandi fólks - sem tryggi raunverulegt lýðræði. Þegar verkalýður og alþýða reisir sitt eigið ríkisvald, er einmitt komið í veg fyrir fánýti þingsalaraupsins. Þá hafa eigendur auðmagns ekki tækifæri til að ráða leynt og ljóst með eigin hag fyrir brjósti og tala um leið um "lýðræði fjöldans".

Tvö sósíalísk ríki hafa markvisst unnið að því að efla hið nýja ríkisvald - Kína og Albanía. Í upphafi er alræði öreiganna að nokkru háð starfsmönnum gamla ríkisins, en auk þess reyna auðvaldsöflin að grafa undan sósíalismanum með öllum tiltækum ráðum. Í Sovétríkjunum tókst þeim það með hjálp liðhlaupa á borð við Krúsjeff. En kínverskir kommúnistar og kínversk alþýða lærði af sögunni, og albanir kynntust af eigin raun ásælni nýju keisaranna í Kreml. Í kjölfar uppgjörsins við endurskoðunarstefnu Krúsjeffs og félaga hans, sem átti sér talsmenn í Kína og í Albaníu, kom menningarbylting í Kína og baráttuherferð gegn leyfum hins borgaralega þjóðfélags í Albaníu. Gagnstætt þvættingi afturhaldsins um "valdabaráttu klíkuhópa" - var um að ræða stærstu pólitísku fjöldaaðgerðir sem saga landanna hafði að geyma. Markmiðið var einfalt: - Burt með skrifræði, peninga- og hagsmunaklíkur. Völd og eftirlit í hendur alþýðunni!

Nú er enn hreyfing í þessa átt í löndunum tveimur. Í Albaníu er nú verið að ganga frá nýrri stjórnarskrá. Hún festir alræði öreiganna og sósíalískt skipulag í sessi, og tekur einarða afstöðu gegn endurskoðunarstefnu og drottnunarstefnu af sovéskri tegund. Stjórnarskráin er rædd skipulega í öllum samtökum í Albaníu, á vinnustöðum, í skólum og fjölmiðlum: "þegar alþýðan talar, þá þegja skriffinnarnir" segja menn í Albaníu.

Í Kína er byltingarhreyfingin jafn sterk og áður. Hægfara menn, eða þeir sem á einhvern hátt túlka endurskoðunarstefnu á marxismanum, eru vægðarlaust gagnrýndir, án tillits til embættis eða aldurs.

Það er okkur kommúnistum og framsæknu fólki óblandin ánægja að sjá furðusvipinn á "fréttaskýrendum" borgarafjölmiðlanna, þegar atburðir í Kína koma þeim á óvart. Alþýðan hefur óendanlegt sköpunarafl - en það er ekki von að afturhaldið viðurkenni það. Í þess augum er stéttabaráttan "valdabarátta í flokksforystunni bak við tjöldin.

## Viðtal ... frh.af bls.2

og forystu. Þetta vita borgararnir og hafa þeir því hafið herferð gegn flokknum með það fyrir augum að fá hann bannaðan. Kommúnistar eru reknir úr vinnu og úr verkalýðsfélögum að undirlagi Alþýðusambandsforystunnar og afturhaldsins en ástæðurnar búnar til jafnharðan. Afturhaldið verður að hefja lygaherferð á hendur flokknum þegar annað dugar ekki. Þetta hefur leitt til þess að stór hópur verkamanna hefur leitað til flokksins vegna þess að AKP(m-l) sýnir sig í raun að vera fulltrúi fyrir stéttabaráttuna í Noregi.

AKP(m-l) bauð fram á nokkrum stöðum við bæja- og sveitastjórnarkosningarnar á síðasta ári. Flokkurinn vann mikið á, sérstaklega vegna þess að nú tókst að útbreiða kommúnismann víðar en áður. Þá náði flokkurinn nokkurri áróðursstöðu m.a. í borgarstjórn Óslóar.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Klassekampen, málgagn AKP(m-l) hefur náð mikilli útbreiðslu og verið öflugur málsvari fyrir vinnandi fólk í baráttu. Hvernig metur þú þýðingu og hlutverk blaðsins?

PS: Efling Klassekampen er beinlínis mælistika á vöxt marx-lenínískar hreyfingar. Klassekampen er mikilvægt tæki fyrir flokkinn til þess að upplýsa fólk þegar bæði borgarastéttin og endurskoðunarsinnarnir reka ákafan áróður og lygaherferð gegn flokknum. Klassekampen haslar flokknum völl þar sem hann hefur ennþá ekki fótfestu. Nú kemur Klassekampen út tvisvar í viku og stefnt er að dagblaði.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Hver eru helstu baráttumál AKP(m-l) núna?

PS: Fyrst er að telja baráttuna í sambandi við gerð nýrra einhliða launasamninga og gegn síauknu valdi broddana í Alþýðusambandinu. Þá er baráttan gegn risaveldunum afar mikilvæg, einkum baráttan gegn sovésku heimsvaldastefnunni. Í þeirri baráttu leggjum við áherslu á hættuna á árás á Noreg ef til styrjaldar milli risaveldanna kæmi, og því verður norsk alþýða að vera viðbúin. Í hafréttarmálum hafa Sovétríkin þegar snúist gegn Noregi auk þess sem þau ögra oft norsku þjóðinni með því t.d. að fljúga herflugvélum sínum inn yfir norskt landssvæði og rjúfa þannig lofthelgi landsins. Þá hefur landhelgin oftlega verið rofin. Einnig mætti nefna aðgerðir Sovétríkjanna á Svalbarða, þar sem þeir fara sínu fram í trássi við alla samninga. Annars er AKP(m-l) virkur alls staðar.

Á landsþingi AKP(m-l) sem haldið verður á þessu ári, verður gert upp við nokkrar hægri-villur í stefnu flokksins. Barátta sú sem farið hefur fram innan flokksins í leiðréttingarherferð þessari, hefur styrkt flokkinn mikið og hann er því ennþá betur undir það búinn að gegna hlutverki sínu.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Nokkur orð að lokum Pál?

PS: Framvinda baráttunnar í Noregi er afar hagstæð. Við lítum hýrlega á baráttu íslendinga fyrir auknum rétti fyrir auðæfum hafsins. Ykkar barátta er fyrirmynd sömu baráttu í Noregi.

Alþýða Norðurlanda hefur hag af sameiningu um vörn sjálfsákvörðunarréttar landanna og til varnar risaveldunum.

Norðurlöndin verða vígvöllur ef til stríðs kemur milli risaveldanna. Það er mikilvægt að skapa einingu alþýðunnar á Norðurlöndum.

Við gleðjumst mjög yfir eflingu EIK(m-l) og yfir þeirri réttu stefnu sem EIK(m-l) hefur í baráttunni fyrir uppkomu kommúnistaflokks og einingu fjöldans á grundvelli stéttabaráttunnar.

## Fundur... frh. af forsíðu

hefðbundnum fundarsköpum, en líklega telur þessi verkalýðsaðall sig ekkert bundinn af slíkum "hefðum" þegar hagsmunir samherjanna í VSÍ eru annars vegar.

Nú var klukkan langt gengin í 19, og Ebbi lokaði snarlega mælendaskrá og síðan héldu hann og Gvendur J. fáein lokaorð, sem flest fóru í það að hvor hældi hinum fyrir "gott og óeigingjarnt starf í þágu félagsins", og þeir stöppuðu stáli hvor í annan og hvöttu til "áframhaldandi baráttu og enn stærri sigra". Síðan voru samningarnir bornir upp og samþykktir, en mótatkvæðin urðu 48.

Þar með hafði Dagsbrúnarforystan unnið enn einn leiksigurinn á ferli sínum, og uppsker væntanlega eitthvað gott fyrir hann, enda hefur auðvaldið séð um sitt fólk fram að þessu.

Fréttaritari.

## Efling... Frh. af forsíðu

launuðu starfsliði, vígvélum og aðstoð erkióvina alþýðunnar, Bandaríkjanna eða Sovétríkjanna. Og, einmitt er útlit fyrir að USA neiti en Sovétríkin "hjálpi"

## Frà Albanìu. frh.af bls.3

sjálfsákvörðunarréttarins við breska heimsvaldastefnu, innan efnahagstakmarka, heldur færi baráttuna út í alhliða baráttu gegn heimsvaldastefnunni.

Hinn staðfasti ásetningur ísl. alþýðu að verja efnahagsréttindi og fullveldi er fordæmi sem nýtur stuðnings allra þjóða og alþýðu sem virðir frelsi og þjóðlegt sjálfstæði, segir blaðið að lokum.

- EIK(m-l) sendir þakkir og baráttukveðjur til Albaníu.

# Frá ritstjórn

Verkalýðsblaðið vill minna áskrifendur sína á að borga áskriftina sem fyrst. Eins og allir hljóta að hafa tekið eftir þá fer blaðinu stöðugt fram hvað útlit snertir. Prentunin er líka orðin offset. Það hækkar kostnaðinn á blaðinu töluvert, og þá er gott fyrir okkur að innheimtan sé í góðu lagi.

Næsta blað eða aprílblaðið mun koma út með fyrra móti eða um miðjan mánuðinn. Þannig stefnum við að því að útkomdagur hvers blaðs verði í byrjun mánaðarins. Er þá áætlað að maí blaðið komi út 1. maí.




## Sendinefnd til Albaníu

Í APRÍL N.K. MUN SENDINEFND MIÐSTJÓRNAR EIK (m-l) FARA TIL ALBANÍU TIL VIÐRÆÐNA VIÐ FLOKK VINNUNNAR ÞAR EYSTRA. FERÐIN ER FARIN TIL ÞESS AÐ KYNNA GANG MÁLA HÉR HEIMA OG STÖÐU EIK (m-l).

EIK (m-l) hefur nú um skeið unnið að undirbúningi ferðar til alþýðulýðveldisins Albaníu, til viðræðna og samskipta við albanska kommúnistaflokkinn, eða Flokk vinnunnar, eins og hann heitir. Albanskir kommúnistar standa í broddi fylkingar í heimshreyfingu marx-lenínista, undir forystu Envers Hoxhas. Við uppbyggingu sósíalismans í Albaníu, svo og í stefnu í heimsmálum yfirleitt, hafa þeir hvergi hvikað frá marx-lenínismanum, og FV var einn flokka í Evrópu sem ekki laut endurskoðun Krúsjeffs, Brésneffs og samstarfsmanna þeirra meðan marx-lenínistar voru á undanhaldi. Það voru albanir sem stóðu við hlið kínverskra kommúnista þegar afhjúpun á hinum nýju keisurum í Kreml hófst í kring um 1960.

Það mun verða kommúnískri hreyfingu á Íslandi mikill styrkur að tengjast fastari böndum albönskum félögum, og þar með allri hinni marx-lenínísku heimshreyfingu, enn frekar en nú er.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ mun flytja nánari fréttir af för sendinefndarinnar og viðræðunum.

## Vantar stuðningsnefnd

S.l. vor, að afloknu verkfallinu í smiðjum Kaupfélags Árnesinga á Selfossi, gerðu EIK (m-l) tilraun til þess að fá ýmiss samtök, svo sem KSML, Fylkinguna o.fl., til þess að stofna stuðningssamtök verkfalla. Hugmyndin var sú, að til væri nefnd er gæti starfað ef á þyrfti að halda, og skipulagt fjársöfnun og aðrar stuðningsaðgerðir við verkfallsfólk. Ekki vildu nein samtök ljá máls á þátttöku í slíkri nefnd, og varð því ekkert úr stofnun hennar. Nú hefur það sýnt sig að þörf er á stuðningsnefnd af þessari tegund, og má benda á hið mánaðarlanga verkfall verkakvenna á Akranesi og fleira, því til stuðnings.

EIK (m-l) mun gera aðra tilraun.

## Viðræður EIK(m-l) og KSML

Þann 11. mars s.l. hófust formlegar viðræður milli fulltrúa EIK (m-l) og KSML, skv. opnu bréfi er EIK(m-l) birti í 2. tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS (fylgirit).

Fulltrúarnir munu ræða skv. áætlun um baráttusamvinnu milli samtakanna í ákv. baráttumálum, og svo um ágreiningsatriði og ólíka afstöðu til atriða marx-lenínismans. Af hálfu EIK (m-l) er hér um að ræða rétt skref í þá átt að sameina íslenska marx-lenínista í og utan EIK (m-l) og vinna skv. marx-lenínismanum að stofnun íslensks kommúnistaflokks. EIK (m-l) tekur enn óbreytta afstöðu gegn stofnun flokks KSML á páskum n.k., og telur hana ekki taka mið af sameiningu marx-lenínista.

Viðræðurnar eru félagalegar og til töluverðs vísar.

## Sendinefnd frá OFML

Systursamtök EIK (m-l) í Færeyjum heita Oyggjaframi (marxist-leninistar) og eru einu kommúnísku samtökin þar. EIK (m-l) og OFML hafa átt góð samskipti og hafa færeysku félagarnir m.a. stutt ísl. alþýðu drengilega í fiskveiðideilunni.

Nú er væntanleg sendinefnd frá miðstjórn OFML til Íslands til viðræðna við EIK (m-l). Ferðin er farin til að styrkja enn frekar baráttu og samstöðu norrænna marx-lenínista gegn hentistefnu, endurskoðunarstefnu af tegund Alþýðubandalagsins og heimsvaldastefnu hvers konar. Að viðræðunum loknum er væntanleg sameiginleg ályktun OFML og EIK (m-l), og væntanlega mun verða birt viðtal við hina færeysku félaga í Verkalýðsblaðinu.

## Stuðningur frá Portúgal

Þann 27. des. 1975, stofnuðu portúgalskir marx-lenínistar á ný Kommúnistaflokk Portúgals (endurbyggðan) - PCP(r).

Flokkurinn tekur einarða afstöðu gegn flokki Cunhals, "PCP", sem styður Kremlkeisarana og ryður ríkisauðvaldi braut í Portúgal. Í málgagni nýja flokksins, Badeira Vermelha (Rauði fáninn), er allítarleg frásögn af fiskveiðideilunni. Er þar lýst málavöxtum og ýmsum aðgerðum verkafólks og vinnandi alþýðu í málinu. Blaðið lýsir fullum stuðningi við vinnandi fólk á Íslandi í baráttunni við andstæðinga á borð við Stóra-Bretland, V-Þýskaland, NATO og Sovétríkin; "barátta hinna hugrökku íslensku alþýðumanna er öðrum lýsandi fordæmi", segir Badeira Vermelha í lok frásagnarinnar.

## Fundur í V.R.

Sunnudaginn 29. febrúar var haldinn félagsfundur í Verslunamannafélagi Reykjavíkur. Voru samningarnir til umræðu. Eftir að tveir stjórnarmenn höfðu sagt álit sitt á samningunum í tæpa tvo tíma var enginn tími eftir fyrir hinn almenna félaga að koma fram með skoðun sína á þeim. Einnig kom á daginn að engin afrit af rammasamningunum voru til á fundinum að undanteknum þeim sem stjórnin hafði í höndum sínum. Þó var verið að ræða atriði sem varðaði kaup og kjör. Félagi frá EIK(m-l) dreifði dreifibréfi á fundinum. Var það hvatning til fundarmanna að fella samningana. Gekk þá Hr. forstjóri Guðmundur H. Garðarsson fram og krafði dreifingarmann nafns undir því yfirskini að hann væri að ganga úr skugga um hvort viðkomandi væri í VR, sem hann jú var. Ekki sást G.H.G eða annar á vegum stjórnarinnar athuga eða skrifa aðra fundarmenn niður. Hvað vakti fyrir Guðmundi?

## Tilboð frá Fylkingunni

EIK(m-l) barst á dögunum bréf frá Fylkingunni, þar sem farið var fram á að samtökin stæðu saman, ásamt fleirum, að aðgerðum á 1. maí. Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) afþakkaði samstarfstilboðið og tilgreindi rök fyrir þeirri ákvörðun. Rökin voru í stuttu máli þessi:

1. EIK(m-l) telja að aðgerðir 1. maí eigi framar öllu að sameina verkafólk og vinnandi alþýðu. sem tekur afstöðu gegn stéttasamvinnu og tekur undir kjörorð um sósíalisma. Þetta fólk er finnanlegt bæði utan og í samtökum.

2. EIK(m-l) telur sig enga samleið eiga með samtökum eins og Fylkingunni, Alþýðubandalaginu og Alþýðuflokknum. Fylkingin starfar ekki á grundvelli verkalýðsstéttarinnar, og AB og Alþ.fl. reka hreina stéttasamvinnustefnu. EIK(m-l) á samleið með framsæknu fólki úr AB og Alþ.fl. sem einstaklingum, en við flokksforysturnar vilja EIK(m-l) enga samvinnu í kjarabaráttunni eða baráttunni fyrir sósíalisma.

3. EIK(m-l) eru mótfallin hugmyndum Fylkingarinnar um að einstakir aðilar sem taka þátt í aðgerðum sem þessum megi hafa visst "málfrelsi". Aðgerðir með pólitískum sérkröfum margra samtaka - kröfum sem eru andstæðar eða í mörgum mism. útgáfum, gera aðgerðir að skrípaleik, sem virkar sundrandi á ófélagsbundið baráttufólk. Aðgerð 1. maí er ekki ræðupallur fyrir hvers konar skoðana hópa á vinstri væng, heldur öflug og sameinandi árás á auðvaldið - á borgaralegra strauma.

# Bylting Alþýðubandalags

Í tilefni af 60 ára afmæli ASÍ, ritaði Kjartan Ólafsson leiðara í Þjóðviljann, þar sem hann nefnir hættuna á því að "flokkurinn fjarlægist byltinguna" ef hann ekki gæti sín á hentistefnunni. Er ekki ólíklegt að ýmsir brosi í kampinn, þegar tyllidagaróttækni AB-forystunnar er dregin þannig fram. En óhætt er að fullvissa þessa mætu menn um það, að orðin duga skammt þá verkin tala. Hver man ekki eftir Union Carbide-afrekum "vinstri" stjórnarinnar, eða afnámi vísitölubótanna, eða landhelgissamningum við breta. Sumir kynnu að rifja upp þátt AB í smánarlegum kjarasamningum og allar embættistignirnar sem forystumenn flokksins hafa. Einhver kynni jafnvel að nefna heildsölu- og fjármálabrask í tengslum við AB, eða volduga styrktarmenn Þjóðviljans - jafnvel menn á borð við Rolf Johansen. Það er því eitt að tala um byltingu, en annað að stunda stéttasamvinnu og auðvaldsþjónkun í verki.

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ




## Byggðaröskun

Baráttan gegn rányrkju fiskistofna er um leið barátta fólksins í sjávarþorpum og bæjum allt umhverfis landið fyrir öruggri framtíðarafkomu. Fiskurinn og vinnsla hans er lifibrauð þessa fólks, beinlínis fyrir þá sem vinna að beinni öflun eða vinnslu hans, en óbeinlínis fyrir þá sem vinna ýmis störf tengd útvegi og fiskvinnslu (t.d. ýmiss konar þjónusta, iðnaður, s.s. skipasmíðar o.fl.). Fiskurinn er þessum byggðum sú stoð sem gefur þeim möguleika á því að standa á eigin fótum, og eyðing fiskjarins myndi ekki þýða annað en það að efnahagsgrundvellinum yrði kippt undan slíkum byggðarlögum, og slíkt gæti leitt til fólksflótta frá þessum byggðum til þeirra staða þar sem mestum hluta iðnaðarins er safnað saman. Frammi fyrir hættu sem þessari gætum við staðið á nálægum tímum, verði ekki gripið til óvæginnar baráttu gegn þeim skipulögðu eyðingaröflum sem láta greypar sópa um auðlindir hafsins umhverfis landið.

Auk þeirrar hættu á röskun í byggð landsins sem við blasir af völdum rányrkjunnar, þá stafar mörgum byggðarlögum mikil hætta af þeirri miðstýringarstefnu sem birtist í þeirri tilhneigingu ríkisvaldsins að þjappa byggð saman í fáar, stórar einingar, til að gera framleiðsluna "hagkvæmari", skipulagðari og þar af leiðandi arðvænlegri fyrir þá sem hirða afraksturinn af striti fólksins. Þessi stefna leiðir af sér, að leitast er við að draga úr, eða hætta alveg, aðstoð við viðhald og uppbyggingu byggðarlaga, sem talið er "óhagkvæmt" að halda í byggð. Í dag birtist þetta ljósast í þeirri stefnu stjórnvalda í landbúnaðarmálum, að beinlínis borga sumum bændum sem afskekkt búa fyrir að hætta búskap, ef talið er "óhagkvæmt" fyrir samfélagið að haldið sé uppi búskap á þessum stöðum.

Miðstýringarstefnan birtist í því, að í stórum dráttum eru 4 meginbyggðakjarnar á landinu sem ætlast er til að verði "miðstöðvar", hver í sínum landsfjórðungi: Ísafjörður, Akureyri, Egilstaðir og Reykjavík, hin síðastnefnda skal gegna hlutverki hinnar almáttugu höfuðstöðvar. Á þessum stöðum er og verður lögð megináhersla á að byggja upp iðnað, þjónustu, heilsugæslustöðvar, sjúkrahús, stjórnsýslumiðstöðvar umdæmanna o.s.frv., en litið er á byggðirnar í kring, fyrst og fremst sem frumframleiðslusvæði með fremur einhæfum atvinnumöguleikum (lögð áhersla á fiskvinnslu/sjávarútveg og landbúnað í sístækkandi framleiðslueiningum). Þannig er byggt upp stórt og voldugt miðstýrt framleiðslu- og stjórnsýslunet, þar sem hvert byggðarlag er öðru háð, meira eða minna, og allt á að lúta hinum 4 meginkjörnum með Reykjavík sem þungamiðju. Í Reykjavík eru allar mikilvægustu ákvarðanirnar í stjórnsýslu teknar og í ljósi þess, svo og þess sem á undan segir, þarf ekki að undrast það að fjárveitingavaldið skuli ekki skera við nögl sér fjárveitingar til uppbyggingar á Reykjavíkursvæðinu, en sé hins vegar eins og snúið roð í hundskjaft þegar t.d. lítið sjávarþorp eða sveitarfélag úti á landi fer fram á aðstoð vegna félagslegrar uppbyggingar af ýmsu tagi. Slíkar fjárveitingar fást aldrei nema ef kynni að vera fyrir stöðuga pressu frá íbúum þessara byggðarlaga á stjórnmála- og embættismenn. Bjargist málin, og fjárveiting fæst, þá þykir það í frásögur færandi, og þingmenn berja sér á brjóst og þræta um "heiðurinn" af því að hafa gert sitt til þess að þetta volaða byggðarlag skrimti áfram. Þá er gjarnan glott út í annað til sveita.
En sé um að ræða beiðni byggingarfélags, eða annarra slíkra aðila, um að fá að reisa þúsund manna gámhýsi uppi í Breiðholti, þar sem verið er að skapa mannfjandsamlegasta umhverfi sem um getur, ja, þá þarf ekki að bíða eftir að fjárveitingavaldið gefi grænt ljós og ausi fé úr sjóðum. Enda eru þeir mafíuguttar, sem sitja og græða á húsnæðisskorti í Reykjavík, líklega í góðu sambandi við þá sem deila út fjármagninu og fyrir þá er öllu arðvænlegra að byggja og selja í Reykjavík, heldur en t.d. á Djúpavogi.

Reykjavík er miðpunktur í því kerfi sem byggt hefur verið á Íslandi. Þar situr ríkisstjórn, þar kjafta þingmenn, þar eru allar helstu stjórnstofnanir staðsettar, þaðan er kippt í flokksspotta, þar hafa öll helstu launþegasamtökin aðsetur sitt, þaðan er öllum voldugustu fjölmiðlunum stjórnað o.s.frv. Auk þessa má svo nefna að í Reykjavík er þungamiðja verslunar, þjónustu, heilbrigðismála, mennta- og menningarmála o.s.frv. Í Reykjavík er uppbygging hröð og fjölgun ör. Þessi borg fitnar á kostnað landsbyggðarinnar og ljóst er að þróun í þá átt að draga úr valdi og áhrifum Reykjavíkur er ekki fyrir hendi í dag. Þvert á móti hefur miðstýringin aldrei verið meiri en einmitt nú, og sú stefna, að draga byggð landsins saman í fáar, stórar einingar er staðreynd. Landsbyggðaralþýðan á því í höggi við öfl sem beina spjótum sínum að sjálfum tilverugrundvelli hennar. Baráttan gegn rányrkju og röskun af völdum hennar er þegar komin á dagskrá. Þessa baráttu verður að tengja alhliða baráttu gegn eyðingu einstakra byggðarlaga af völdum eyðingar náttúrugæða eða af beinum völdum stefnu ríkisvaldsins.



GEGN RÁNYRKJU FISKISTOFNA OG ALLRI EYÐINGU NÁTTÚRUGÆÐA!
GEGN MIÐSTÝRINGARSTEFNU RÍKISVALDSINS OG BYGGÐARÖSKUN!

# Alþýðuleikhúsið

BLAÐINU BARST EFTIRFARANDI FRÉTTATILKYNNING:

Síðastliðið vor stofuðu nokkrir áhugasamir einstaklingar á Akureyri leikfélag sem hefur það markmið að reka umferðaleikhús sem sýnir leikverk er fjalla um þjóðfélagsleg vandamál samtímans. Leikstarfsemi af þessu tagi er alger nýjung hér á landi, þótt hún hafi starfað með nokkrum blóma víða í Evrópu síðustu áratugi.

Hið nýja leikfélag nefnist Alþýðuleikhúsið og hefur það þegar tekið til starfa. Fram til áramóta var starfsemin svo til eingöngu sú að tryggja fjárhag leikfélagsins. Var horfið að því ráði að koma upp styrktaraðild að félaginu og voru gefin út sérstök áskriftarkort sem umboðsmenn hafa svo til sölu víða um land.

Um áramót var ljóst, að unnt yrði að hefja a.m.k. nokkurra mánaða starfsemi sökum fjárframlaga styrktarfélaga. Þá voru fastráðnir fjórir leikarar, þau Arnar Jónsson, Kristín Ólafsdóttir, María Árnadóttir og Þráinn Karlsson. Nú er æfingum að ljúka á nýju íslensku lekiriti, og verður farið af stað með það í lok mars. Leikritið heitir "Krummagull" og er eftir Böðvar Guðmundsson. Það er ætlað bæði ungum og gömlun, í því eru margir söngvar og hefur Jón Hlöðver Áskelsson samið tónlistina. Leikstjóri er Þórhildur Þorleifsdóttir en leikmynd og búninga hafa félagar í Alþýðuleikhúsinu annast.

Leikritið verður frumsýnt á Neskaupstað sunnudaginn 28. mars. Daginn eftir verður farið með það til Eskifjarðar og Reyðarfjarðar. Það verður sýnt á Fáskrúðsfirði hinn 30. mars og daginn eftir á Stöðvarfirði og Breiðdalsvík. Hinn 1. apríl verður svo sýnt á Þórshöfn, Raufarhöfn, Húsavík og í félagsheimilum og skólum í Þingeyjarsýslu. Eftir páska verður svo sýnt á Norð- Vesturlandi og Vesturlandi eftir því sem tími leyfir.

Verkalýðsblaðið fagnar þessu framtaki. Einn þáttur í stéttabaráttunni er einmitt baráttan fyrir venjulegri alþýðumenningu, sem stendur í mótsögn gegn tilraunum ráðandi stéttar við að gera menningarstarfsemi óskaðlega sjálfri sér. Róttækt leikhús sem þetta er stórt skref framávið.



## 1. MAÍ Reykjavík

Fulltrúar nokkurra samtaka hafa komið sér saman um að bjóða til samfylkingar á 1. maí og skal markmið aðgerðanna vera að safna öllum andstæðingum stéttasamvinnu, heimsvaldastefnu og afturhalds í eina aðgerð á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsins.

Samtökin sem að þessum aðgerðum munu standa eru: EIK(m-l), KSML, Rauð æska, SÍNE, Baráttusamtök verkafólks, Skólafélag kennaraskólans, Palestínunefndin, Hópur verkamanna í Straumsvík og Verðandi.

Samtökin hafa orðið ásátt um að höfuðkjörorð aðgerðanna, sem munu líklega heita Baráttueining 1. maí 1976, verði: Eining og starf á grundvelli stéttabaráttu. Kröfugangan er hugsuð í fjórum deildum og eru aðalkjörorð fyrir hverri deild. Sérkröfur hópa, einstaklinga og samtaka eru heimilar, stangist þær ekki á við höfuðkjörorð viðkomandi deildar. Samstarfsnefnd allra aðildarsamtaka mun taka afstöðu til allra sérkrafna. Samtök, hópar, og einstaklingar þurfa aðeins að taka afstöðu til þeirrar deildar, sem viðkomandi tekur þátt í, annarra deilda ekki. Aðilar þurfa ekki að taka afstöðu til aukakjörorða í þeirri deild, sem þeir taka þátt í, aðeins aðalkjörorða deildarinnar og höfuðkjörorðs göngunnar.

Deildir göngunnar eru sem hér segir, ásamt aðalkjörorðum hverrar deildar fyrir sig:

A. Fagleg deild.
Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku!
Gegn stéttasamvinnu ASÍ - gerum stéttarfélögin að baráttutækjum!
Verkalýður gegn atvinnurekendum - Stétt gegn stétt!

B. Andheimsvaldasinnuð deild.
Niður með alla heimsvaldastefnu!

C. Kvennabaráttudeild.
Kvennabarátta er stéttabarátta!

D. Pólitísk deild.
Til baráttu fyrir sósíalísku Íslandi!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hvetur alla baráttusinna til að taka virkan þátt í undirbúningi aðgerða og aðgerðunum sjálfum á 1. maí. Hægt er að fá nánari upplýsingar um aðgerðirnar hjá undirbúningsnenfd í símum 35904 og 27115.